# Svartfellska

**Svartfellska** (*crnogorski* / *црногорски*) er stöðluð mállýska serbó-króatísku og opinbert tungumál Svartfjallalands. Svartfellska er byggð á útbreiddustu mállýsku serbó-krótaísku, stókavíönsku. Áður var átt við svartfellsku sem serbnesku.

Hugmyndin um staðlað serbó-króatískt tungumál, aðskilið frá serbnesku, á rætur sínar að rekja til tíunda áratugarins og hlaut meiri vinsældir á fyrsta áratugi 21. aldar. Svartfellska varð opinbert tungumál Svartfjallalands þegar ný stjórnarskrá tók gildi 22. október 2007. Svartfellska er ekki enn orðin staðlað tungumál. Stafsetningarreglur tungunnar voru settar 10. júlí 2009 þegar tveimur bókstöfum var bætt við stafrófið, en opinber málfræði og námsefni hafa ekki ennþá verið samþykkt.

| Svartfellska<br>*crnogorski / црногорски* | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Svartfjallaland |
| **Heimshluti** | Austur-Evrópa |
| **Fjöldi málhafa** | (ekki skilgreint) |
| **Sæti** | 25 |
| **Ætt** | Indóevrópskt<br>Baltóslavneskt<br>Slavneskt<br>Suðurslavneskt<br>Vestursuðurslavneskt<br>Serbó-króatíska<br>Stókavíanska<br>**Svartfellska** |
| **Skrifletur** | Svartfellska stafrófið |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Svartfjallaland |
| **Stýrt af** | Nefnd um stöðlun svartfellsku tungunnar |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | enginn |
| **ISO 639-2** | enginn |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.


*Þessi tungumálagrein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Svartfellska&veaction=edit).*